so sem Eins Limar / sa Kraptur ut-
refiur/sem er Tilhlÿdelegur og vid þarf
epter þvi sem mier er hættad i hønum.
Eph: 4. v. 16.

Og so ad vier skulum ecke efäst um
þvilijkañ Krapt Lijkamans og Blood-
sins Christi/ þa hefur hañ sialfur lææt-
ed oss sia þad i audsynelegum Epter-
dæmum: Marc: 5. v. 30. Þegar su
Bloodsiuka Kviña / hver ed ecke gat
Heilbrigd orded þott hun leitadest vid
hia øllum Læknurum / kom ad eins vid
Kladafalld Christi/ þa vard hun Heil-
brygd. Christus vill hafa / ad hiner
adrer skule skilia/hvernig þetta skedur:
Þessvegna snÿr hañ sier vid / og spÿr /
hver hañ snerte? Þad þyker Petre und-
arlegt / ad hañ vill spyria ad þvi/ fyrst
Folked þreingdest ad hønum og þrÿste ad
hønum/ þvi seger hañ: Meistare/Þu
sier ad Folked þreinger ad þier/og þrick-
er ad þier/ og þo seger þu / Hver snart
mig? Eñ Christur svarar aptur: Þad
var ecke nockur almeñeleg Snerting/
helldur

helldur verd eg æskynia ad þad geingur Kraptur ut fra mier : Sa Kraptur var eiñ Guddomlegur Kraptur / Eñ Christi Lÿkame var so uppfylltur med Krapte Guddomsins / ad hañ uthellte sier jafnvel i hañs Klæde / so ad þeir sem snertu hañ ad eins / urdu frelster af allskonar odrum Siukdoomum / Matth: 14. og Marc: 6. v. 56.

Sie nu þvilijkur Kraptur i hñs Lÿkama / hvar vid hañ er komed Vtvort-es / so sem vier siaum og reynum af Gudspiallaña Historium / hvörsu ad hñ med Einfoomre Snerting hefur læknad bæde Veikende og Lÿkþraa / og utreked eiñig sialfañ Diöfuliñ / Hvert skyllde þa ecke Lÿkame hañs og Blood uthella sijnum Krapte myklu framar / og ut-briootast med sijnum Styrkleika til ad reka Synd og Diøful i burt fra mier / þegar þad geingur Iñvortes til miñ i Hollð og Blood i Lÿkama og Saal / so sem eiñ kroptugur Læknisdoomur og Fæda.

Ad þessu hyggium vier ecke nie skeyk-um þvi / og þar fyrer giørunst vier so kallder til Nlutteckningar Lykamans og Bloodsins Christi/ fśium og þess vegna so lijtiñ Krapt þar af/ Vier giørum oss þetta hverge nærre i Lund/ helldur hvik um og hvørslum med Siñe voru / hug-sum ecke nema til Vijns og Brauds sem vier medtøkum/o.s.f. Eñ alldrege geingur Braudëd og Vijned saiarlega þier i Muñ med øllum sijnum Nattur legum Fullkomlegleik / Eñ Lykame og Blood JEsu Christi geingur med Full-komlegleika giørvalls sijns Guddooms i gegnum þiñ Muñ iñ i alla þijna Natt uru/ og umbreiter heñe / ef þu geingur aśiars rett þar til so sem byriar.

Vm hvern Krapt Christur og so talar i Kvølldmaltijdar Ordunum/Pad Er Miñ Lykame/ Og Pad Er Mitt Blood/ Eted Pad Og Drecked i Mijna Miñing/Edur so ad þier hafed nockrar mijnar Meniar: Hvert ad er / sem hañ segde: Pier gleymed mier fliott/og þeg-

ar

ar eg lijd einum Maße ur Mißie / ad hañ hugsar ecke til mijn / þa veiter hægt ad leida hañ Afvega: Þar fyrer þa giored nu þetta: Eted miñ Lijkama og Dreck ed mitt Blood / þad skal ske til ad Endurnya fyrer ydur mijna Mißing / þad er / Giored þetta ad eins / siælfur skal eg Nærverande uppvekia ydar Miñe / og læta ydur fiña / preisa og taka a / ad eg er Nalægur hiꝏ ydur. Þañig a þetta ad skilia / Hygged nu ad / hvad Christur sie / og hvada Kraptur er i honum: Blood ed JEsu Christi hreinsar oss af øllum vorum Syndum:.

JEsus Christus er eiñ DRottiñ / fyrer hvers Vellde ad Diøfulsins Kne skiælfa og titra / Phil. 2. Hvad mꝏ þad. þa añad kallast / eñ þetta / Ef Christus er med mier / hver vill þa vera i moote mier? Ef Christur tekur sier Adsetur i Lijkama mijnum og Sælu / og giører sier þar Samastad / þa hlijtur bæde Kraptur Syndariñar og Afl Diøfulsins vissulega ad fæ hiñ sømu Afdrif /

sem þar getur um/ Luc. 11. v. 22. Þa er aflar Yfersterkare kemur hinum Sterka / þa verdur hiñ Sterke ad gefa upp Høll sijna. Þa verdur og Diøfulliñ vissulega ad vijkia burt ur Hiarta og Siñe Lijkama og Sælu/ fyrer krøptuga Nælægd Guds Sonar/ og hañs krøptuga Blood hreinsar mig vissulega/ bæde med Fyrergefning / og so med krøptugre Endurnijung. Mord-Eingelleñ / 2. Bok. Mos. 12. Hræddest fyrer Bloode Paaska-Lambsins/og þorde ecke ad koma iñ fyrer þær Dyr til ad giøra Skada nockurn / er hañ þo i hveriu Huse a Egyptalande myrdte alla Frumburde a eiñar Natur-Freste / hvert skylldc ecke sa Mordinge Diøfulliñ meir hrædast og vijkia fra þvi Hiarta og þeirre Saal/ sem er rioodud bæde utañ og iñañ til med Bloode JEsu Christi þess Saklausa Lambs Guds/ og Volldugа Guds Sonar.

So høfum vier nu þesse þriu Medøl/ og hvada Krapt Gud hefur skipad i þeim/

þeim/So ad þegar þau/þad er Orded/ Bæniñ og Sacramented/uthella sijnum Krapte / þa verdur þad ecke Einungis ecke Omøgulegt einum Maññe / helldur skedur þad og æn stoorrar Torfæru/ ad nä þeim Algiørlegleika / sem Gud ut, heimter af oss til Sæalar-Velferdar.

Hvar u-ñ Johañes talar ægiætlega/ lijkande til alls þessa/er hañ þañig skrif ar/ 1. Joh. 5. v. 3. 4. 5. Þad er rettur Kiærleikiñ til Guds / ellegar ad elska Gud / þad vier hølldum hañs Bodord / Villtu þu segia/Ad vijsu/Eñ hver geł ur þad giørt? Þa vit/Guds Bodord eru eige þung / þau eru þier ecke Torvelld, are nie Þungbærare / eñ ad þu geter giørt þau fullvel.

Þvi ad søñu sægia eg / vill Postuliñ segia / ad hver sem vill elska Gud rette, lega/og hallda hañs Bod/ mun og yfer, viña allañ Heimiñ/ bæde sitt eiged Holld og Blood / lijka vondar Fortølur Mañ, aña/og Hneixlesfull Epterdæme/ Hañ skal og yfervinña sialfañ Diøfuliñ / so.

ad sa hin same skepter hverke um Lock-
aner og Fagurgala/nie Hookaner Man-
asia / ellegar giorvallrar Verralldar /
Ecke helldur um Lyf edur Dauda / Og
skal han geta i mookstaded bæde Vielum
og Vallde Diøfulsins. Enn þetta er
helldur ecke Omøgulegt/seger han fram
vegis / Þviad eins og þad er Gude al-
hægt/ ad yfervinna Heimenn/ og allt þad
sem er i hønum/ so getur einnig allt þad
sem er fædt af Gude / og hefur feinged
Hlutdeilld i Guds Volldugre Natturu/
yferunned Heimenn. Og vier/vier Christ-
ner/ sem truum og erum skyrder a JEs-
sum Christum/ høfum þa Religion og
Tru/ er getur yferunned Heimenn. Vor
Religion er su alleina Religion, sem
þad getur giort. Þvi ad hver er annars
sa / sem getur yferunned Heimenn / utann
JEsus Christus Guds Sonur ? Fyrer
hønum alleina/ verda Hofdingiar Heim-
sins ad vykia / hann hlær bæde ad Viela-
fullum Flockadrætte / og so / ad sterkre
Mootvøm allra Manna/ Ps. 2. Og ecke
kostar

kostar pad han utan eitt Ord/ ad reka Dioful iñ innur i Afgrun/ Lu. 8. v. 31. So sem alls eingin megnar þvilijkt ad giora utan han / so er og eingin medal allra Mana a Jordu/ er gefur yferunned Heimiñ/og fær giort Dioflenum/Hofdingia Heims þessa Mootstødu / utan þeir alleina/ hverra DRottin/ Hyrder/ og Forsvar ad Christur er/þvi ad han/ hvers DRottin ad er Christur/ er og so Einglunum skipad ad bera a Hondum sier/ Af honum hlioota Drekar og Høgg ormar/ Leon og Eytur-Ormar/ad læta sig Foottroda/ Ps. 91. Honum verda og so Einglarner ad þioona/ Ebr. 1. Og ad setia Herbuder i kryngum han / Ps. 34. En nu hafa þeir alleina aller saman JEsum Guds Son fyrer sin Herra / sem trua a han og treysta honum / ad han sie Guds Sonur / og sendur þeim einn Frelsare af Gude / reida sig uppa hans Ord/so sem pad Himnesska Fyrerheite/og epterfylgia honum af Hiarta/ og þeim somu er mogulegt ad yferviña

Neimiñ/og Nofdingia Neimsins Diofuleñ.

Hviad(vill Johañes segia eñ nu) sa Vollduge Drottiñ / JEsus Christus Guds Sonur / er ecke langt i burt fra peim / hañ er ecke nockur Herra so sem Veralldleger Herrar / er hafa sitt Adsetur Einhverstadar i sijnu Lande / og verda ad siaa med añarra Augum / og sijsla med añarra Hondum Añarstadar / Helldur er hañ eiñ Herra / sem er Nalægur midt a medal peirra / hvar Tveir edur Prijr eru samankomner i hañs Nafne / Matth. 18. Hañ sier hvad hvern sem eiñ vantar og brestur / hañ heyrer hvad hver eiñ kallar / Falle nockur / pa helldur hañ Hondeñe under hañ / og reiser hañ a Fætur apttur / Ps. 37. v. 24. Hañ veit allar Rada-Brellur Diofulsins / hversu ad hañ talar og eggiar bæde iñañ og utañ til i Hiartanu / hañ hefur Diofuliñ bundiñ par hañ er Nalægur / so ad eige megnar hañ ad skada hid miñsta Haar a oss / utañ Guds Vilia / eñ

skiour ad kvelia oss/og freista vor leingur og framar eñ vier faum þad stadest / 1. Cor. 10. Þesse same vor DRottiñ hverfur ecke i fra oss / nie helldur stet fra oss/helldur kemur hañ til vor: Þesse JEsus er sa Guds Sonur / sem kemur til vor/so ad vier getum yferuñed Heim eñ/og kemur hañ fyrst med Vatne fyrer vora Heilaga Skijrn / sviptande oss undañ allre Magt Diofulsins / fyrerbioodande honum / ad giora oss nockud utañ sijns Leifes / og þar med frelsar hañ oss þañig fra Dioflenum/ ad hañ mæ ecke rada fyrer oss/nie stioorna oss/ eins og Børnum Vantruariñar. Eñ JEsus kemur ecke Einungis med Vatne/ helldur kemur hñ og so med Bloode/ og fyrer Sacramentum sijns Heilaga Lijkama og Bloods / kemur hañ til vor/ og gefur oss Styrk og Krapt til ad yferviña Heimiñ / 1. Joh. 5.

Og auk alls þessa / þa kemur eiñig sa Heilage Ande/(fyrer Heyrn Ordsins/ og Alvørugefne Bænariñar) sem ad

vitnar

viknar þad fyrer vorum Anda / og å Starka votu/ ad vier fꜳum þvi truad / ad Andeñ er Sañleikur/ og ad þad Ord sem Andiñ talar um Christ / er Guds Sañleike / og epter þvi sama truum vier bæde og lifum.

Þetta er su hreina og lioosa Meining i Ordum St. Johañis: Þar seger hañ / ad oß sie mögulegt ad hallda Guds Bodord / ad so myklu Leite sem Gud heimte þad/og ad yfervinña þar med allañ Heim. Þviad.

1. Fyrst kemur Christur med Vatnenu/og fyrer vora Heilaga Skyrn þryff ur oß burt ur Ryke Diofulsins/af Yfervallde Myrkrañs / so sem sagt verdur/Col. 1. v. 13.

2. Þar næst fædunst vier af Gude / og fꜳum hañs Nꜳtturu i oß / fyrer Krapt þeß Oforgeingelega Guds Sædes/ hvert ad er Ordeð.

3. J Þridia Lage kemur Christus eiñ ig fyrer Blooded / þad er fyrer Sacramented / og hialpar oß ad yfervinña Heimeñ. 4.

4. Og i Fioorda Lage kemur hin̄ Heilage Ande / bæde fyrer Orded og Bænena/ sem vitnar fyrer Hiärtum vorum/ og yfertalar vorar Sæler / so ad vier reidum oſſ uppa allt þad sem ſa same Ande predikar fyrer oſſ/og giørum epter þvi : hver Ande og ſo gefſt oſſ / og gyrneſt i mooke Holldenu/ſtioornande oſſ/ ſo ad vier getum geinged i gegnum Verolld þeſſa/ ecke epter Ohreinum Gyrndum Hollds sins/helldur epter Gyrnd Andans i Heilagleika og Rettlæte / og komed Oſtraffanleger fram̄ fyrer Auglite JEſu Christi.

Vegna þeſſ þa/ ad Gud Fader med ſÿnum Kraapte / JEſus Chriſtus med ſÿnu Almætte / Heilagur Ande med ſine kroptugre Yfer-Bevÿſingog Stioornan/ kemur til vor / þar fyrer ſeger Johan̄es/ Getum vier yferun̄ed Heimen̄ og halldet Guds Bodord / ſo ad vorf Lÿferne i Truñe a JEſum Chriſtum/ getur vered fyrer Gude Oſtraffanlegt og O-Fordæmanlegt.

VII. Cap.

# VII. Capitule.

Hversu ad Einn og Sierhver skal bruka/ og getur lyka brukad þesse Medøl / so ad hønum ee þad einginn stoor Ohægd.

ENN nu Frammveges/ Jafnvel þott þetta sie nu noogu klarlega bevysad/ þa ulheimtest enn nu samt til hlydelega Ein Rett og Sønn Vppfræding umm þetta/ Hvad til þess kome / ad þeir verda ecke aller samann Leidretter / nie vissa Bot a Raade sijnu/ ecke lyndter nie Sinnader epter Gude / Ecke Vppløster nie Skioornader af þeirre Helþgu Þrij-Eining/sem þo heyra Orded/ fara med Bænena z bruka Sacramentenn/ þvnad vier sionum fyrer Augunum/ ad þad skedur allt ødruvijsse/ og ad varla lætur þridie/ fiorde / fimte Partur i Guds Søfnude stiorna sier og styra af Guds Anda / helldur filgia þeir miklu framar a epter Holldenu og Dioflenum : Ef þar er nu sa volldugur Krapt ur i þeim þremur Medølum / sem sagt hefur vered / Hvar fyrer utheller þa sa Kraptur

Krapt ur sier ecke til allra/ sem hafa þau þriu Medøl / auk sitiar Skyrnar / og bruka þau ?

Vm þessa Spurning hefur Herrann vor Christur sialfur talad af Asetninge hia Lucam i Attunda Capitula i Epterlijkingunne um Ferallda Sæd-Jørd / og nefner þessa Spurning med hennar Ansvare og rettum Skilninge a henne / Eitt af Leyndardoomum Himnarijkes/ Luc: 8. Þad er þvilijkann Vijsdoom sem Madurenn getur ecke sialfur uppfunded/ helldur verdur hann ad skilast og dæmast epter Guds Openberunum.

Þvi þa þad var so vid / ad margt Folk kom ur allrahanda Stødum til JEsum / ad heyra hanns Predikun / og hann / so sem sa / er þecker Hiørtun / Joh: 2. visse hvada Asetningur og Gudrækne ad var i Hiarta sierhvers / Þa framsette hann þessa Eperlijking / bæde til ad forsvara Krapt sijns Ords/ moote Hiegomlegum Vmlestre Manna/ og til ad kenna hvernig ad eirn og sierhver Madur

Madur giæke hagad Ordenu sialfum sier til Sælar Heillar / hvad søkum þess þeir yrde ecke aller Rádvánder / er heyrdu á sialfañ Christum/helldur hefde flester og þad hiner Hellstu / so sem Pharisæarner þad ad Náde/ og nockrer søgdu/ad þad være Diøfla Lærdoomur/ þa villde Christur med þessre Epterlijking/ sijna og keña/ hver su rètta Orsøk være / og i hveriu hun være iñefalen / ad Orded fær de eingañ Avøxt / til þess ad eiñ og sierhver Madur giæte rijmt heñe burt ur Vegenum / og hindrade ecke Krapt Guds Ords og Verks.

Þvi byriar hañ þañig z seger (v. 5.) Þar geck ut eiñ Sæd-Madur ad sa sijnu Sæde / og þa hañ sáde / fell sumt hiá Vegenum/ og vard Foot trodeð/ og Fuglar Himens æku þad / og sumt fell a Hellu/ og þa er þad sprátt upp/ visnade þad / af þvi þad hafde eige Vøkvan / Og sumt fell á medal Þyrna/ og Þyrneñ spruttu upp medog kiæfdu þad/ Sumt fell i gooda Jørd / og þad vox upp/

upp / og bar Hundradfalldañ Avöxt / Matth. 13. v. 8. Þessa Eptirlijking ytleggur Christur sialfur strax fyrer Lærisveinunum / og seger : Ad Sädet sie Guds Ord/eñ Akurinn og Iördiñ sieu Hiörtu Maññañá. Meiningeñ fyrer hiná Einföllou er þesse.

Þad er eins varid Himnarijke á Iörd eñe/ ellegar Christelegum Söfnude / i hveriumi Gud lætur predika sitt Ord/ til ad nidurbriota Rijke Diöfulsins og Helvijtes / og til ad uppbyggia Rijke sialfs sijns i Mañenum/ eins og einum Sad-Mañe kañ ad vera hattad/ þegar hañ sæer sijnu Sæde.

Þegar eiñ Boonde sæer Sæde sijnu á Landenu/edur yfer Akuriñ/þa er Sæd ed allt samañ eins gott/þviad hañ tek, ur þad ur eiñe Hrugu uppa Lopkenu / og af einum Sad-Poka á Akrenum/ og velur ecke Korneñ til þess ad hañ sæe nockru Kraptarlausu Korne i þeim Stad/og þvi sem er Krapt.myked/Bok þa fullt og gott i ödrum.

Auk þessa er það og alldrege Aseld ningur eins Boonda / að hans Erfide og gooda Sæde skule vera forgefens á þin þremur Pörtum Akursins/og bere ein ungis Avöxt á þeim Fioorda Partenum: Helldur Oskar han i Hiarta sier / að giörvallur Akurin bære sier ein Fagnadarlegan Grooda fyrer sitt Erfide: Þar fyrer giörer han sier eins myked Omak állstadar á Akrenum / med því að dyrka han og sá hann.

Allt eins er / þegar Guds Ord predikast: Christus er sialfur Sæd-Madurin: Eins og Sæd-Madurin er ecke fiarlægur frá sijnu Sæde / so er og Christus helldur alldrege fiarlægur hvar hans Ord er Predikad/ Kent/Reked/ og Athugad: Helldur so sem han seger sialfur/Matth. 28. Gänged ut og kenned öllum Pioodum: Giored/ Eg er med ydur allt til Enda Veralldarinnar: Hvad utlagt verdur / Marc. 16. Postularner geingu og predikudu / og Christus var þeim samverkande. Og Matth. 18.

Hvar

Hvar Tveir edur þrijr eru samankom-ner i mijnu Nafne / þar er eg midt a medal þeirra.

Eins og þad lijka er fullkomin Ost Sad-Mansins / ad Sædid græte vared allstadar upp og bored Avøxt / þa er þad lijka Hiartanleg Ost Christi / ad aller / Ja aller / mætti komast til Saluleikssins Vidurkenningar / 1. Tim. 2. Og odlast Skilning Saluhiælparinnar / Luc. 1. Og þa rettu lifande kroptugu Trú / sem i burt rekur Syndena og Diøfulinn.

Hvad Christur velur ecke helldur Orded ut / til ad sa hvi / sem er ecke neema Hisme eitt og Kraptarlaust / helldur er allt þad Ord sem predikast / Eitt Ord / og allt samann kroptugt og fullt af lifande Kiarna og Krapte þess Heilaga Anda.

Enn spyrier þu nu ad / Hvi er þa Orded ecke eins kroptugt hia øllum? Hvi verda þeir þa ecke aller gooder og færa Avøxt / sem heyra Orded? Þa svar

 ar

ar Christur þier þaftig: Giør so vel og
seg mier/ þu Bonde/ hvad ken ur til þess/
ad þitt Sæde/ hveriu þu sær/ vex ecke
allstadar eins upp/ og hellst ecke allstad-
ar eins vel vid Mægt? Hier mun þu
jata/ ad þier er ecke ad keñ um þvilijkt/
ecke helldur Sædenu / helldur nie keña
Jordeñe þar um/ ad sum er grytt/ sum
er utan hia Vegenum / sum er Þyrne
vagsin/ eñ sum er good/ hreinsud/ Avaxt-
arsom Jord: So er og sialfs Mañsins
Hiarta um ad keña. Madurin fer ecke
rett med Guds Ord / Meñ heyra þad
ecke sem þeir ætti / og sem þeir giætu:
Þar fyrer tekur Diøfullin an adhvert
Ordid i burt fra þeim ur Hiarta þeir-
ra/ ellegar þad hindrast og so hia þeim/
af einhveriu Vondu sem er i Hiartanu/
so þad nær ecke ad grooa / ellegar ad
bera sin Avoxt.

Hvad Guds Ord skal heyrast þan-
ig/ ad vid þvi sie teked i goodu Siðsomu
Hiarta/ þa mun þad vissulega bera sin
Avoxt/ so ad Madurin mun verda þria

tijger/

tigger/og/afnœl Hundrad Sinum betre/ eñ hañ var nockurn Tijma œdur.

Par seger Christus hvernig Madur eige ad heyra Ordid: Eige er þad noog ad heyra Orded / helldur a Madur lijka ad geyma þad i Hiartanu / Og œ ecke hvert Hiarta þar vid / helldur skal þad vera eitt gott og Rœdvandt Hiarta.

Ef spyr þu þa/ Hvad gott og rœdvandt Hiarta sie? Þa svarar Christur hier strax. Þad er eitt gott og œrlegt Hiarta / sem ecke er utañ vid Vegeñ / ecke grytt / ecke fullt af Þyrnum edur Þistlū / helldur eins z sagt er i algeingu Mœle og Meining: Eiñ Goodur/ Ærlegur/Rœdvandur og Froomur Madur/ So er og eitt Gott / Ærlegt/ Rœdvandt og Froomt Hiarta / sem ad medtekur Vppfrœding af Ordenu med allre Þoleñmœde.

Par vijsar Christur oss fyrst til Skilnings og Meiningar Alþyðu z Almuga Mañna uñ Heyrn Guds Orda / hver ed vered hefur a þeim Christi Dög/

um/ eins og eñ nu a vorum Døgum/ og kemur hañ fram med Þreñs Høttar Ongka Tilheyrendur / hverier ecke hafa gott Hiarta.

1. Er mykell Parkur Alþydu / hver ed/ so sem Meñ meiga sia Hversdaglega med Trega fyrer Augum sier/ skilia ecke betur / eñ ad þegar þeir geta fared til Kyrkiu a Suñudøgum / ellegar ødrum Døgum/ sem eru skipader til Guds Þionustu/ og vered þar/ til þess ad sa Tyme er lidiñ/ Nalæger ad Lykamanum: Og þegar þeir vilia þa vanda sig / ad þeir sofa þa ecke nie kiapta Tymañ i burt/ helldur hlyda nockud a hvad Christi Þenare vill segia þeim/ þa hyggiast þeir ad hafa vel helgad siñ Sabbath / og ægiætlega hallded siñ Bæna-Dag / og sieu so Gude ecke skyllduger um neitt framar. Hyggia so alldrege neitt fram ar ad Ordenu/ hvad þeir hafa heyrt/ eda hvar þad a heima / nie hugsa til þess / helldur Odara sem þad er talad / þa er þad gleymt: So ad þeir eru ecke ødru-

visse

vijse i Kyrkiuñe/ eñ sem þeir stæde utañ vid Vegiñ / og heyrdu einhveria Vegfarande segia / Guds Fride / Sæler/ og skipte sier so alldrege neitt af þeim sijdañ.

Nu þeim/seger Christur/ ad Orded geteecke giørt nockurn Avøxt/ af þvi/ ad þegar þeir hyrda ecke uñ ad hallda sig vid Orded / þa veit Diøfullin̄ vel / hvar til þad þienar / og hvada Kraptur i þvi sie/ Hañ hefur og þa Leife af Gude/ad neyta siñar Magtar/ og ad flytia sig iñ i Hiarta og Hugskot / og ad reka Orded þadañ i burt / so ad Madur fær alldunges eingu halldet af þvi: Eñ ecke mun Satan þetta giøra/ æn þess ad hañ hafe vort Leife þar til/ so ad vier hyrdum eckert uñ Orded : Þviad þegar eg skeyte ecke uñ ad geyma nockud þar af/ þa er þad eins gylldt/og villde eg segia: Heyr þu Satan : Villtu hafa þetta Korn og þetta Ord / þa taktu þad burtu/Jeg hyrde ecke neitt uñ þad.

3. Þar næst er og eiñ mykell Hluke

peirra/ sem safnvel þott þeir gefe Giæ-
fur ad Ordenu/geyme. þad og hugse ept
er þvi/gefa þo eingan Gaum/ ad hvers-
su Orded sie dyrmætt: Nelldur taka þeir
epter þvi so sem ødru nyju / skynugu
undarlegu og fæheyrdu Tale/. Lærdoo-
me edur Konst/Giætande ecke jafnframt
ad þvi/sem Christur seger/Matth. 16.
Hvad kyne þad ad gagna. Mane / þott
han hefde og ætte allan Heimen / og
ætte þar fyrer og eingu adskydur ad for-
tyna Sælu sine? En Hiørtu peirra
hanger vid Lysteseme/ Gyrnd/ Glede og
Afhallo Heims þessa / Og hallda peir
so vid Orded a medan Gud helldur þeim
vid Eigner/ Megan/ Hustru/ Børn/
gooda Heilsu/Heidur/Lyf/ o. s. f. En
skule peir verda ad hætta / edur voga
nockru af ollu þessu / fyrer Guds Ords
Saker / þa sleppa peir helldur Guds
Orde: Og þetta er Teikn til þess / ad
peir elska ecke Orded fyrer þa Skulld /
ad þad er so dyrmætt / helldur vegna
þessa Heims: Hafa so meire Ast a Heim
enum/

Knum/ enn a Gude og hvt Sydsska/og pad er sa Steinenn sem liggur i Miarkanu : Peir heyra ad Ordenu / þeir taka epter Ordenu / þeir lijda pad / þeir tala þar um / þeir gefa Ordsins Þienurum noeg ud lijfed/enn po ecke leingur/ enn þeir geta sialfer næst (medann þeir lifa) vid Ordsens Jatning. Þar fyrer/Sokum þess pad er eingenn rett Elska edur Kiærleike i þeim til Guds / þa er þad ecke annad enn Eintoom Nafne i allre þeirra Neyrn/ i allre þeirra Gudhrædslu/Froomleika/ Heilagleika/o.s.f. Og ma pad segiast um þa er Esaias seger : Þeir Nalagast Gud og hans Ord med Vorunum/ enn þeirra Hiortu eru laangt fra honum / Esa. 29.

3. Auk þessarra/ er enn þa einn Flockurinn/ sem heyrer Ordeð / enn þeir eru po sockner nidur i Ægyptiz Heims þessa/ og Jokun Holldlegra Wellystinga / so ad þeir hugsa ecke um neitt annad / enn pad sem kann ad fylla og kitla Lijkamann : So ad Hiortu þeirra eru uppfylldt med A-

gyrne/Oretkvijse/Lauslæte/Ofdryckiu/ Ofæte/og Gyrndum til aññarra þvílijk-ra stoorkostlegra Glæpa: J þessu leida þeir Æfe sijna fram/af þessu er Hiarta þeirra yferbugad og underlagt. Þa þeir eiga nu ad heyra Orded/ þa er Hiartad añadhvert ædur uppfyllt med þess-hattar Syndsamlegum Hugreñingum/ so ad Orded gefur ecke feinged Rum þar i/Ellegar og so/ ef ad Orded kemur þar iñ/ þa eru þesser Þanckar og Hug-reñingar ecke eñ þa burtrootader/ helldur vaxa þeir upp sem Þyrnar og Þystlar / og þegar Orded vill þa gefa nockurn Avoxt til Retklætes/Medaumkunar/Elsku/Skijrlijfes/Hreinlegs Athæfes/Sparneytne i Mat og Dryck/o.s.f. Þa stijnga þesse Þyrne og Þystlar fra sier og i kryngum sig / so ad Guds Ord og Gyrnd Andans hlijtur ad hverfa undañ / Eñ sialfra þeirra Hollolsgar Gyrnder spretta upp / þess vegna fær Sæde Ordsins hier ecke neiñ Avijxtins edur Framgang.

Þar fyrer seger Christus framveg, is: Ad ef Orded skule bera nockurn Avöxt/ þa verde Men ecke Einungis ad heyra þad/ helldur og ad taka vid þvi / geyma þad og Jhuga þad i Hiarta sier/ þo ecke i Þrasnesfullu Hiarta / sem þioonar Gude fyrer Mamons Saker / ecke helldur i þvi Hiarta / sem brennur af Hatre/Fiandskap/ Ofund/ Agyrne/ Reide/Mektorda-Sykt/Lauslæte/Ohæ- versku/og Opolinmæde/ sem styngur og leggur i krijngum sig / þegar þad illa Framferde er straffad: Eñ Madur a ad taka vid þvi og Hugleida þad i einu goodu/ Ærlegu / Þolinmoodu Hiarta: Þad er/Sa Madur sem skal heyra Gu- ds Ord med Averke / a ad hafa Vilia og Aform til Radvende/Ðanumeñsku/ Froomlyndes / Hañ verdur og ad þola þad liuflega/ ad Synder hañs og Lester eru leiddar hønum fyrer Siooner og a- vijtadar/ecke helldur ma hañ vellta sier nie draga sig fram i Holldlegum Vel- lystingum / ecke þyngia Hiarta sitt med

Syfius,

Sofnslegre Grædge og Oforneckiu / ecke saurga Lijkama sijn og Sælu med Lauslæte/ Agyrne/ o. s. f. Og ecke maa hann af Opolinmæde reidast edur læta sier þykia fyrer/ þott Illska hans sie mögl-ud edur refsud/ helldur a hann ad hreinsa sitt Lijkerne / standa i moote þeim vondu Tilteigingum og Gyrndum af fremsta Megne/ og taka vid Uppfrædʼing og Aminning af Guds Orde: Þad er eitt Raadvandt gott Hiarta / Eins og Madur seger: þad er Goodur/ Ærlegur/ Froomur Madur/ edur Kona: Þad er med faam Ordum sagt: Þeir eiga ecke ad vera neiner Skalkar/ Þioofar / ecke Orettvijser/ ecke Hrakordasamer nie Ill-Yrder/ ecke Saurlijfes-Menn/ ecke þeir ed lædast med Limsku og Vielum/ til ad svijkia edur skada nockurn / so sem ad voru Pharisearar og þeirra Lijkar/ Sem hugsa ecke umm neitt annad/ og vilia ölldunges ecke mootstanda þeirre Gyrnd: Helldur eiga þad ad vera Gooder / Ærleger Menn/ hiaa hveriu ad Orded skal giora

nockurn

nockurn Avoxt: Þess Mallar Foolk / sem ad minsta Koste/ giører ecke ver/ af Þverud og Grædsku/er pad veik po bet-ur. Og pad er hid sama gooda Mark/ ta/ um hvert ad Ølleggingen hlioodar i i þeim Fimta og Siotta Capitula / hvar talad er um Motstødu gegn Synd- ene / hvernig ad sierhver Madur a og kan ad standa i mooke Syndene / epter þeim Mätte og Krapte sem Gud hefur hønum veitt.

Þetta ma eñ nu auglioosligar skilia af Ordum St. Jakobs/ J hverium han framfærer hid Einfalldlegasta i Sma- Þorkum / hversu ad Eiñ og Sierhver skal fara med Guds Ord.

Ord Postulans eru þesse/ Jak. 1. v. 13. 14. 15. 16. 17. 18. 19. 20. 21. 22. Eingiñ sege/nær hañ freistast/pad hañ af Gude freistadur verde/ þviad Gud er eingeñ Freistare til hins Vonda/og ein- kis freistar hañ. Helldur freistast hver Eiñ / nær hañ tilteigest af siñe eigiñ Gyrnd og lockadur verdur/og sydañ pad Gyrndiñ

Syrndiñ hefur getid/ fæder hun Syndena : Eñ nær Syndiñ er fullkomnud / fæder hun Däudañ. Villest eige Kiær er Brædur/ Øll godd Giøf og fullkomiñ Giøf/ kemur ad ofañ fra Fødurnum Liosſins/ J hiá hverium er eingiñ Umſkipting/ nie Skyting Liosſins og Myrkursins. Hañ hefur fædt oſſ epter ſiñe Villo(ſinum goodum Viliá)fyrer Sañleikſins Ord / uppa þad vier vætum Frumburder hñs Skepnu. Fyrer þvi/ Kiærer Brædur/Sie hver Madur fliotur ad heyra / eñ tregur ad tala / og til Reide tregur : þvíad Mañſins Reide giører þad eige/ hvad fyrer Gude Rettferdugt er. Þar fyrer afleggeð allañ Ohreinleik og Jllſku/ og medtakeð Ordeð med Hoogvære/ þad i ydur er Grooduſett/hvad ed kañ ydar Sáler Hiálpleglegar ad giøra. Vered og einñig Giørendur Ordſins / eñ eige alleinaſta Tilheyrendur/hvar þier ſiálfa ydur med tál Taalar drageð.

J þeſſum Ordum er þad hiñ rette

eigenlege

eigenlege og hellste Aiskningur Postulans / ad reka þa til Baka / sem vilia kenna Gude um / ef þeir geta ecke lifad so hreinu og heilögu Lyfferne fyrer utan Synd / sem Postulen heimter af þeim i sama Brefe / og seger ad utheimtest af Tru þeirra.

1. Hvad fyrst seger han v. 13. Enginn sege / þad han af Gude Freistadur verde : Ellegar og sem Men eru vaner ad segia : Jaa / Eg get ecke vered betre enn Gud hefur giört mig : Gud betre þann / e er fæddur a eitthe vondre Stund : Eg maa vel trua / Hefde Gud ecke viliad hafa þad / ad eg skyllde vera ein Hoora / Hioofur / Manndrapare / Dryckiurukare o. s. f. þa være þad og helldur alldrege sked. Þar til svarar Postulenn strax / og seger Nei : Gud freistar einskis / Gud innblæs eingum nockurn illann Þanka / Eige helldur æsyser hann edur eggiar til nockurs Ills : Hvad eins og hann gefur ecke feinged nockurn hinn minnsta Þanka ellegar Innskot i sijna Nattu

ru til hińs Illa / so gefur hañ þad og alldrege nockrum Mañe i Hiartad elleg- ar i Hugskot og Sińed/ v. 14. Eñ þad kemur allt samañ af sialfs Mañsins syndugre Gyrnd og Tilhneiging : Hver Gyrnd ad fæder uḿ síder Syndena og Daudañ af sier v. 15. Þá Lýsting hef- ur Gud eingañvegeñ skapad i Mañnen- um / Helldur er hún komeñ frá Diøfl- enum fyrer sialfs Adams Skulld / Og ecke er hun Lyst og Aeggian Guds/ helld ur sialfs Mañsins.

2. Eñ i añañ Stad (seger St. Ja- cob) Þa koma allar goodar Giafer her ad ofañ / frá Fødur Liossins / er ecke alleina gefur allt Gott/ Helldur er þad og i mooke hañs Natturu ad gefa Mañ enum nockud Illt / og þar i umbreitest Gud alldrege/ Ecke i hinu minsta / so ad hañ sie ecke ætid einka Goodur/Ein- fom Giædska / Einunges Gott af sier giørande uḿ alla Eylifd.

3. Og Framveges seger hñ v. 18. So ad eingeñ skule þurfa ad klaga yfer Gude / og

og kiefia honum sijna Bondsku i nockurn Mata / Þa hefur Gud jafnvel skipad af sialfs sijns goodum og elskulegum Vilia Obedist / knudur af goodre Födurlegre Velþocknan sialfs sijn / og af Gyrnd til Leidrettingar og Salar Velferdar Manfiña / so sem sinar Skiepnu / hverre hañ villde ufta Vegsemdar Frumgetningariñar / medal allra sinna Handa Verka / þad Medal / og þad tilsett / sem er kroptugt til ad niðurkefia þa vondu Gyrnd er freistar Mañsins / æsker og eggiar hañ til þess Jlla / og leider hañ so ut i Syndena og Daudañ.

Þad Medal er Sañleikssins Ord / v. 13. Hverin Gud hefur tillagt þañ Krapt / eins og i eitt Natturlegt Sæde / ad hañ Endurfæde oss þar med / og umbreite giorvallre vorre fyrre vondri Natturu / so ad vier i Hiarta / Hug / Sinne / Hugreñingum / Ordum / Latum og Verkum / lijkiunst honum / og ecke þeim spillta Adam / so ad so marger / sem hafa þ Etta ORD ad eins / og vil-

ia rett fara þar med/þurfa alldrege ad kvøda edur klaga / þviad vissulega geta þeir bæde staded i gegn Syndeñe / ad so myklu Leite sem Gud þad heimter / og komest hiá Daudanum og Helvyte: Søkum þess ad þad Ord giører Sáler-nar hoolpnar.

Epter þetta geingur Postulinn leingra æfram/og syner/ v. 21. Hvernig/med hvada Niarka og Sine vier eigum ad heyra Orded: Fyrst ad sa Krapfur er i Ordenu epter Guds Vilia (seger hañ/) þa skal nu 1. Fyrst v. 19. Hver Mad ur vera fliootur til ad heyra: 2. þar nærst/ tregur til ad tala. 3. Til Reide tregur/ afleggiande allañ Ohreinleik og Ofervætles Jllsku. 4. Og v. 21. Medtake Orded med Hoogvære / og iñplante þad i sijna Nætturu. 5. Og verde þañig Giørare Ordsins / v. 22.

þar fyrer skrifar sa Guds Madur oss Sex Reglur/medur hverium hañ utskyrer / hvad þad gooda Niarta sie/ og metur þar med Vanalega og Ovitur-lega

lega Medferd Mana a Guds Orde.

3. Og Fyrst seger hañ: Ad hver Mad ur skule vera fliootur til ad heyra Orded. St. Jacob lyker her i til Alpydu Bana / um hvern Christur kvartar / Luc. 14. v. 18. Ad pegar Sendebode Konungsins kemur / og bydur peim til Veitslu og Brudkaups Sonar syns / Matth. 22. v. 2. Pa hefur eiñ ecke Toom fyrer Akre synum / Añar ecke veg na siñar Kaup-Syslanar / Sa Pri'ie ecke fyrer Saker syns Handverks / med hveriu hañ a ad forsorga Konu og Born. Allt er hid sama eñ nu i Dag: Ad pegar Foolk a ad fara til Kyrkiuñar og heyra Predikan / og par er gefed Teikn til med peirre stooru Baßunu ellegar Kluckuñe / pa a Foolk fyrst ad sysla pad sem pad getur ecke aflokt: hina adra Dagana: Pa tekur hver sem eiñ Bara a siñe Veralldlegre Syslan / og hugsa med sier / ad peim sie altyd gefed ad heyra Guds Ord / Kyrkiañ bydе vel epter peim / hun hlaupe ecke fra peim /

o. s. f. Par um seger Postulenn pa/ ad
su Tyd / a hverre Guds Ord er kennt /
eige ecke ad Vanrækiast: Helldur a hver
Madur ad vera fliootur til ad heyra /
kasta helldur ollu fra sier og yfergefa
pad/ þegar hann veit ad su Tyd er/helld-
ur enn ad Vanrækia Ord DRottens /
Lætande eingann Hlut vera sier kiærare
enn Guds Ord / og hugleide pad sem
Christur talar Matth: 16. Hvad mæ
pad stoda pig/ O pu Manneskia pott pu
avinner allann Heim med pvi ad afrækia
Guds Ord/enn lydur po Skada og Top
un a Salu pinne: Hviad Orded æ ad
giora Salena hoolpna. Afræke Mad-
urinn pad / Pa er vel mogulegt / ad hann
græde noctud a medann/ enn pa tortyner
og Salenn / Og pa er lyted unned/ pegar
pu avinnur eitt lytelfiorlegann Pening /
hvers pu fær po ecke noted nema umm
stuttann Tyma / og hann Ovissann / Enn
Diofullinn avinnur Salena/til ad kvelia
hana umm alla Eilyfd. Par fyrer vill
Postulinn aminna oss med peim Ordum /
ad

ad vier ecke vanrækium Guds Ord nock tu Sifie / helldur neytum Tydarinnar med Glede.

2. Regla. Þar a epter kemur su Þridja Regla. Þegar eitt Madur kemur þa til ad heyra Orded / þa skal hann vera tregur til ad tala. Þad Tal og su Ræda / skedur ecke alleina med Muñenum/helldur og so med Hiartanu/og meinar hann hier med. þann Almennelega Sidvana / sem fylger Mannsins Hiarta/ ad Dæme Nicodemi / er ecke villde þeigia Ordlaus fyrer Christo / a medan hann var ad kenna hønum/helldur strax er nock ud kom / sem hønum þotte ad ecke ætte vid Skynsemena / þa kom hann þar a moote med þetta sitt NBEKnig: Og took til ad mootmæla: Hvernig ma þad vera? Hversu er þad møgulegt? Eins er vß og vared / strax er vier skiliumm ecke Orded/ og þad a ecke vid vora Skynseme og vora gomlu Meining / þa talar Hiartad / þott Munnurinn þeige / Ja / Hvernig getur þad skadest? Þad gylldet-

ecke mykeđ : Prestuřiñ predikar fyrer mier / ađ eg skule ecke vera ágiarn / eg skule ecke međ Brøgdum neinum keppast epter Eignum mijns Nꜳunga / eg skule ecke hafa þađ Makar-Ede / ecke hafa þess Nꜳttar Fot ađ slijta / o.s.f. Nꜳñ skilur þađ ecke betur/ þađ er ecke so myk- els verdt/ o.s.f. Allt eins og Pharisæ- arner giørdu Skøll ađ Christi Predikun međ siꜳlfum sier/ er hañ sagde/ Luc. 16. v. 14. Ađ Madur giæte ecke þiona bæde Gude og Mamon i Señ.

Þar fyrer vill St. Jacob hier hafa/ epter Vppfrꜳding Guds Anda/ ađ þeg- ar Guds Ord er keñt og framfært/ vier þa skulum sitia sem hin Einfallda Ma- ria vid Fætur Christi/ Luc. 10. v. 28. Og so sem nockur Smꜳ-Børn og Ein- fallder Lꜳresveinar i Skoola/ sem lꜳta sier lynda međ þađ sem fyrer þeim er hafft : Vier skulum og hugsa međ oss siꜳlfum/ ađ þott vier skilium eñ þa ecke vel/ þa hlioote þađ þo satt ađ vera/ međ þvi Gud seger þađ so : Nvar i su Nei-

laga

laga Mey Maria er oss til eins Epter-dæmes ; Er Christur seger vid hana / Luc. 2. Hvert byriade mier ecke ad vera i þvi sem mijns Fodurs er ? Jafnvel þott hun skillde ecke þad Ord/ þa geym de hun þad þo i sijnu Hiarta / mz allra Mootmæla og Mogluna bæde Hiart-ans og Munsins. Med þessare Barna Einfelldne skipar og Postulin ad heyra Orded/ er han seger/ Vered treger til ad tala; þviad þess Natturar Lærefveina vill Christur fyrer vijst hafa / er ljka-sier lynda þar-med/ad Christur hafe þad þannig sagt/So sem han sialfur þar um talar/ Matth. 11. v. 25. Hvar han gior er Gude Packer / ad han hefur huled Vijsdoom sin fyrer þeim sem villdu sialf er vera so mieg Vijser / og Opinberad þad fyrer Smælingium og Einfølldum. Hvar um eirnig David talar segiande / Ps. 19. v. 8. Ad Guds Ord gefe Vijs-doom þeim Skilnings litlu og Einføll-du : Enn sier i Lage talar Christur þar um/ Joh. 3. v. 11. Þvi þa han gaf nu

Nicodemo alldungis Affvar med hañs HERRNS : þa lyckfar hañ a þeñañ Hatt : Sañlega/Sañlega ſege eg þier : Vier vitum nærſta vel hvad vier tølum/ og vitnum hvad vier ſied høfum / Villdud þier ad eins medtaka vorn Vitnisburd. Þad er ſem hañ ſegde : Þu Nicodeme og þijner Lijkar / Þier taled og vitned opt um̃ þa Hlute ſem þier hafed hvørke ſied nie ſkilied : Eñ Vier / Vier / Eg / Fader miñ og hiñ Heilage Ande/ Vier vitum og ſkilium nærſta vel hvad vier ſegium / og vitum hverſu ad þvi er vared/Jafnvel þott þu viter þad ecke/ Og fæer þad hvørke ſkyniad nie ſkiled / þo ſkallt þu lœta þier þar med nægia/ og ſegia med ſiælfum þier : Eg ſkil þad ecke / og þad er yfer miñ Skilning / og a mooti mijnum Tilhneigingum / Eñ Chriſtur ſeger þad ſamt ſem ædur þañig / og þad er þo Guds Ord/ hañ veit vel hvørſu ad þvi er hattad / Gud hiælpe mier/ad eg giæte lœted mier þar vid lynda.

3. Var fra geingur St. Jacob til þeirrar þridiu Reglu / og seger þañig: Þegar Madur heyrer Guds Ord / þa skal hañ ecke Einunges vera seirn til ad tala / helldur fyrer hvern Mun skal hañ vera tregur til Reide.

Med þessare Reglu vijsar St. Jacob oss sømuleides til þeirrar algeingnu Sidveniu sem vier fylgium / og so til þess Krapta og Verkunar / sem Guds Ord hefur i Hiarta Mañsins / ecke af siaalfu sier/edur vegna sijn siaalfs/helldur fyrer Saker vorrar Hiartans Vondsku. Hvad þañig er Guds Orde hatt-ad/eins Evangelio/sem og Lógmaalenu/ ad þad a hvorke vid vorn Skilning / ecke helldur vid vorn Vilia og Gyrnder/ Helldur giører þ bæde vorn eigeñ Wijs-doom ad Heimsku/ og fyrerbijdur oss allt þad/til hvers ad vort Holld og Blood er hneigt af Naatturuñe. Fyrer þa Orsøk uppvekst stoorkostlegt Villialeyse og O-þocke i Hiortum Mañaña/þegar Guds Order predikad / so sem vier siaaum

þad a Tijdum sialfs Christi og Post-
ulanna/ hversu marga þeir giørdu sier ad
Ovinum med sijnum Predikunum / po
hellst hina Vitrustu / Klookustu og
Magtarmestu i Heimenum.

Hvïad poott eg tale ecke neitt um
pad Strijd / sem Orded a i vid Skyn-
semena/og tale Einungis um pa Bar-
attu er pad a vid vorar Nattursegar
Gyrnder/pa er po bæde Løgmalsins og
Evangelii Predikun so vared / ad pau
Ord avijta Gyrnder vors Holldz harð-
lega / deila a Tauslæte / Lijge/ Mein-
Eyd/ Fals/ Svik/ Sabb/ Prette/ Ohrein-
lijfe og Greymensku/ Hioofnad/ Nat-
Ofund/ Ohocka/ Reide/ Hefndargyrne /
Agyrnd / Metorda-Sijke / Ofdryckiu /
Dramb/ Metnad / o. s. f. Og giører
allt hvilijkt Fordæmanlegt/og bijdur oss
apfur a moote / ef vier viljum ei missa
Himnarijke og vora Sælar-Velferd /
ad ydka oss med allre Astundan i Skijr-
lijfe/ Hreinlijfe/ Froomlynde/ Dannumen-
sku/ Mannkostum/ Hreinskilne/ Rettlæte/
Sanileika/

Saklejka / Sparneytne i Mat og Dryck/Audmykt/Kiærleika og Alssemd/ o.s.f. Hvar til vier erum þo ecke ukast nærsta Befaler af Reakturuske / edur hofum og einga Gyrnd þar til.

Þegar Guds Ord predikast nu rett / þa getur þad ecke ånad vered / eñ ad þad kome vid Kauned a mørgum hver-tum Hoorunar Mañe/Ohreinum/Laus latum/ Skalkottum Mañe / a einum Þioof/ Meinsæres-Mañe/ Agiornum/ Dryckiurutara/Drambsfullum/ o.s.f. Þa tekur Hiartad ecke Einungis til ad tala Forsmmanarlega/eins og Pharisæ-arner/Luc.16. Og Joh.7.v.7. Helldur giorest þa margur hver Reidur og Beisk lundadur: Og hugsar med siálfum sier/ Skoda/þad er meint til mijn/þad hefur hañ sagt um mig/Þa hugsum vier þad upp/hvar med vier fæum hefnt vor åpt ur / þa hlustum vier þess a millum med Hreckvysse epter Ordenu / ecke ødruvisse eñ Pharisæarner / og kemur þa kanske sijdañ ein Opinberleg Offsookn / hvad

Mest

Meñ ſiaa og reyna ofmiøg niðal hiñar Skonlauſu Alþijðu / J Lands⸗Bygdum og Aſiarſtadar.

Epterdæme høfum vier a Herode Konunge/ Marc.6. Allañ þañ Tijma ſem Johañes Skijrare predikaðe Evangelium fyrer hønum / um̃ Chriſti Perſoonu og hañs Embætte/ fañ ad Villu Phariſæaña/ Kræſne þeirra og Agyrne/kallaðe þa Nøðru⸗Kyn/ hootaðe þm̃ með Tilkomande Reiðe/ þa heyrðe Herodes hañ fuslega / þa var hañ fliootur til að heyra/ þa var hañ ſeiñ til ad tala þar i moote/ḃraſt og ecke helldur reidur. Eñ þa Johañes gat nu ecke geingeð fram̃ hiaa hønum ſiaalfum / predikaðe um̃ Herodiadem og Dootttur heñar/ ſagðe og ſiaalfum Konungenum nockuð fra Fiandanum/ef að hañ liete ecke af ſijnu Diøfuls Hoorunar Athæfe og Blooðs-Skøm̃ / Sia/ þa verdur Herodes allur añar/ þa verdur bæde hañ Reidur og lijka Herodias/ þa hlijtur Johañes að canſa i Myrkva⸗Stofuna. Þeim ſama Koſte mattu.

mættu og aller Spámen sæka.

Hvilijkt skiedur en ꝧa a Dogum/ hvervetna þar ed Guds Ord er predikad/ ad þad verdur ad koma vid Kaunin/ ef þad a án ars ad hafa nöckurn Krapt til Retllætes: En þa þad skedur / þa verdur Foolk ad vijsu firtted z fylleſt af Reide: Sa Eine hugſar / Hvad kemur þad Preſtenum vid? Annar/hvert ſkyllde hann ſegia mier fyrer Siódunum? Eg vil giðra Gis þar ad / Eg ſkal muna hönum þad.

En þar a mööte ſeger Jacob: Hver Madur ſie tregur til Reide/þad er/eingin ſkal læka ſier þyckia fyrer þvi/ ad hañs Syndugu Lijfernè i Hiarta hañs er leidt hönum fyrer Sionet / helldur þacka Gude fyrer þad og þola þad / ſo ſem þad være hönum ſagt af ſiálfs Guds Munne: Þvi ſeger hañ / v. 20. Mañſins Reide gierer þad eige / hvad fyrer Gude Retlferdugt er: þad er/Reid eñ Madur þañig vid Guds Ord / og hugſar / Skyllde hañ þañig rádaſt a mig?

mig ? Seigia mier so fyrer Sidunum ? Eg er ecke neiñ Dreingur / ecke Barn / ecke neiñ Almeñelegur Beßalingur / helldur er eg eitt Høfugmeñe / sem á nockud under siælfum mier/Nañ mætte vel hafa geinged a Snid vid mig/o.s.f. Reidest Madur þañig/seger Jacob/hver su stoor Madur sem þad er/hversu myk ed sem hañ æ ad sier / þa fær hañ þo alldrege nææd þeim Krapte af Ordenu / so ad hañ gete giørt Afturhvarf/Endurbættst til ad adhafast og giøra nockud epter Guds Rettlæte / æ medañ hañ lifer.

Þvi seger Postuleñ framvegis/ Byriar hverium og einum / hversu mikell Madur sem hañ er / ecke einungis ad reidast ecke vid Guds Ord / helldur og epter þvi ad kosta Kapps um þ/ ad afleggia allañ þañ Ohreinleika z yfervætt is Synd / so frekt og miked sem hønum er møgulegt : Nugleidande/ ad Gud er þo eiñ stærre Madur / hvers Ord ad predikad er : Nañ er Konungur Konunga/

añ/

dña / og Drottest Drottnaña / vid hvern samaſt ad jafna vier aller erum ecke nema Leir-Brot / ecke nema Molld og Aſka / ſo marger ſem lifum i Heimenum.

4. Regla. Par um̃ talar hañ fram̃vegis i þeirre Fiordu Reglu / ſegiande: Medtaked Orded med Þoleñmæde edur Hoogværd / þviad ſu Hoogværd er ſett a mote Mañſins Reide / og Fyrrkur ſem orſakaſt af hañs illu Natturu gegn Ordenu. Og er þad ſu Meining þeſſ Heilaga Guds Mañs: Eingeñ Mad ur ſkal reidaſt vid Guds Ord / helldur medtaka þad med Hoogværd / þannig / Ad þegar þu heyrer ad þitt fordæmanlegt Lauslæte / þu hiñ / þijna vondſkufullu Agyrne / þu hiñ / þijna Oforyckiu / þu hiñ / þijna bloodugu Eyda og Svaradaga / þu hiñ / þitt Fals og Underferle / þu hiñ / þitt hatursfulla Hiarta / þu hiñ / þijna Lygefullu Ofrægiande Tungu / þu hiñ / þijna Vanrækt og Forsagt un a Guds Orde. o. ſ. f. Avijtaſt / ſtraffaſt og verda fyrer Hootunum af

Guds

Guds Orde / Þa reidst eige þar vid / helldur þacka miklu framar þeim likän-
da gooda Gude i Hiarta þijnu fyrer þessa Myskunsemé / ad þu mætt læra
ad þeckia Synd þijna / so ad þier verde ecke burt svipt i heñe / Þvi þad er ad
visu ein stoor Guds Nad / ad hañ vill leidretta þig / sem eitt eiñ Syndare / á
Vegenum / so sem David seger Psalm. 25. v. 8. og lata þig ecke Ovidvaradañ
fara burt i Fordæmingena midt i þiñe Vondsku / Reidst þar fyrer ecke vid þa
Nad / helldur medtak þad so sem Nad / og so sem eitt vist Teikn / ad Gud leit-
ar þijns Apturhvarfs / og gyrnest þij-na Velferd. Seg þvi helldur i Hiarta
þijnu: O Drottēn Gud / Alldrege visse eg mædur / ad su Synd var so stoor / Eg
hefe alldrege skiled ad Gud munde so straffa Ofdryckiu / Nætur / Ræ̈nglæte /
Bloot og Mūñeyda / Roog / Fals / þreck-visa Nlustan epter Guds Orde / Van-
brukun Sacramentaña: Gude sie Lof / Eg hefe nu feinged þecking þar a / Eg
skal

skal med Guds Fullkinge leggia þad af / Gud hiälpe mier med sijnum gooda Anda ad leidretta og betra minn vonda Lifnad. Þannig fer David ad Efnum sijnum þegar ad Spämadurenn Nathan straffar hann fyrer þa Hoordooms Synd er hann häfde framed med Betsabea: Eg hefe syndgad / seger hann / Og enn framar: Gud / tak ecke þinn Heilaga Anda fra mier / O Gud skapa þu eitt hreint Hiarta i mier v. s. f. Psalm: 51. Þad er sü Fioorda Regla.

5. Regla. Su Fimta er i þvi innefalinn / ad þegar vier tokum Typtan Guds Hooglätlega sem Born/hvar til Salomon og so ammiñer/ Ordskvida Bok. 3. v. 11. Þa er þo ecke noog / ad vier tokum hetie i þad Sinn/helldur skulum vier läta Typtan og Radu Drottins vera Innplantada og Grooduhsetta i oss / þad er/ vier skulum läta hana innrätast vel i Hiortu vor og Salu vora / so ad þad gange i gegnum Merg og Bein a oss / og hugsum gioria epter Aminning

og Typkan þeirre sem oss er giør af Guds Orde/og Nugleidum hana i Hiørtum vorum/ Nugskote og Sińe. Køstum þvi ecke strax i Vind sem til vor er talad/helldur yfervegum pad/og so sem tiggium a þvi / so pad fæe þreingt sier iñ i Holld og Blood/iñ i Merg og Bein a oss / og neme Stadar iñ i Nattúru vorre/ iñe i Hiartanu og Sálune/Þvi/ ad pa Meining hefur pad Griska Ord.

Og þessa Reglu setur St. Jacob a mote þvi Sinuleyse og Tilfiñingarleyse / sem er i og med Mañenum / þegar hañ a ad nema Guds Ord : Þvi ad søñu hrærunst vier þess a millum lijtels hattar/ þegar vier heyrum Ordeð/ eñ strax er Raustiñ lijdur fram hia Eyrunum/edur vier komum ut ur Guds Huse/og siaum ecke Prestiñ leingur/ pa hug sum vier ecke helldur til þess framar. Eñ eige Guds Ord ad verka siñ Krapt i þier / pa verdur þu vissulega ad lata pad vera i þijnu Hiarta/ og þeinkia um pad Daga og Natur/ Ps. 1. Þvi pad

tefier

keñer Christur hiꝏ Matth. 13. Kvark-
ande yfer þvi/ad Diøfulliñ take þa Ord
id i burtu / þegar Meñ giefa eingañ
Gaum ad þvi / Og hañ utleggur þad /
Luc. 8. Hvar hañ samlijker Ordenu
vid Sæded. Ef ad Sæded skal giøra
nockurn Avøxt / þa verdur þad, vÿst ad
fara nidur i Molldena. So er og Ord
enu hꝏttad/ef ad þad ꝏ ad giøra nock-
urn Avøxt i Hiartanu/ þa byriar Ma-
ñe og ad hallda þvi i Hiartanu / þad
verdur ad søckva nidur og geymast i Hiar
tanu / og þad med Þolinmæde / so sem
Christur seger ad vier skulum ecke keido-
ast nie fꝏ Leida vid þad/nie a þvi/þott
þad Ord lꝏte ecke fiña siñ Krapt ꝏ
þvi Augnablike: Þviad hañ kemur ecke
ælljd strax / so ad vier getum funded til
hañs / eñ giører þo vart vid sig og ber
siñ Avøxt a sijnum Tijma/ so sem Da-
vid talar/ Ps. 1.

Þetta sama læter og Christus skil-
ia i þeirre Eptferlijking um Surdeigid/
Krapt Surdeigsins fꝏum vier sied og

smackad / ad hañ gefur umbrett giørðvellu stooru Deige / eñ alldrege verkar þad hvilykt / ef Madur leggur þad ad eins ofañ a Deiged/nema þvi sie þiapp ad nidur i þad añad Deig/ og verde þar i: Eins œ og Guds Ord ad nidurþiapp ast i Hiartad med Hugleidingunum/ z vera þar i / Ef þad œ añars ad giøra nockurn Avøxt.

σ. Regla. Nu i Siøtta Mæta/þegar Guds Ord et nu pañig heyrt og geymt/ þa eigum vier ad giøra epter þvi / hvad oss er møgulegt/ecke liggia i Dæd leysse/ ætlande þad sie noog/ad vier høfum heyrt Orded og vitum þad/ Nelldur skulud þier vera Ordsins Giørendur / seger St. Jacob: þad er/ þegar vier nu skilium Guds Ord / og vitum hvad oss ber ad giøra / þa skulum vier ecke ætla nie meina: Jæ/ Nu veit eg/hvernig eg œ ad vera/vilie Gud nu snua mier/þa verdur mier snued/sie þad Gude Alvara/vilie hañ hiælpa mier fræ þvi Syndsamlega Athæfe/þa dregur hñ mig vel þar i

fræ:

fra: Ney/Ney seger Postulin/Ecke so: Gud tekur ecke i Nated a þier / eins og Eingellin took Nabakuk/og dregur þig ut ur Noorn-Nusenu og Breseviins Nolunum/Ecke tekur hañ þig um Nal'sin ellegar bindur þig / so ad þu geter ecke hrært þig til Meinsæres/þioofnad ar/Lijge/Flærædes/ellegar añars Ills/ Eñ Gud hefur gefed þier Vit og Skyn/ lijka hefur hañ gefed þier Magt til ad fordaſt Elld og Vatn / Nrærnig og Stioorn Tima þiña hefur hañ gefed þier/og lated vera þier iñañ Nandar/so sem sagt hefur vered i þeim Fimta Capitula/Þad vill Gud hafa/ad þu skuler age og tenia siælfañ þig/ þad frekaſta þier er megulegt.

Þetta eru þar 6. Reglur sem kena oss hvernig vier eigum ad fara med Guds Ord / Eñ fyrer þui ad Meñ hyrda ecke um þad / þa er og Orded Ofrøptugt i þeim / og kemur þeim ecke til Sælar Velferdar / helldur miklu framar til Fordæmingar/epter siælfs Christi upp

søgdum Doome / og Obifañlegu Afkvæde / Ad sa Pioon / sem veit Vilia Sijns Herra / og gjører ecke pad framast hañ megnar / skal sæta miklu Straffe / Hvîad allar pessar 6. Greiner eru Mañe Møgulegar / sem er añars gæddur Natturlegu Mañs Vite og Krøpkum : Pvi / ad vera fliootur til ad heyra Guds Ord : Pa Hugleide Madur adeins med siaalfum sier : Pegar Kluckuñe er hrijngt / og Foolk er kallad til Guds Huss : Hvert er pier pa ecke eins vel gefed / ad gænga til Kyrkiuñar / sem til eins añars Stadar : Hvert skylldu ei peir sømu Fætur / sem bera Mañ i Dryckiu Hus / Hooru Hus / ut a Akur / Haglende Mørk og Skoog / geta eins vel bored hañ a sømu Tijd til Guds Huss / og munder pu ecke eins vel geta seted eina Stund i Kyrkiuñe / sem heila Noott og Dag vid Breñevijns Skalena : Eñ framar : Munder pu ecke geta heyrt Ord Drottins med peim sømu Eyrum / med hverium pu getur heyrt Lijge / Kiapta-Æde /

Bak-

Bakmælge/ Og med þeim Skilninge og Mine / sem þu hefur til ad byggia ad og hallda vondre svo virdelegre Rædu og Ofræging / kynner þu vissulega og so ad taka epter Guds Orde og vardveita þad : Ad sønnu sanka eg/ ad þad Gooda loder ecke so vel vid sem þad Vonda/ þo er ecke Omogulegt ad taka epter þvi : Og en framar: Eg get hugad ad hvatt inge og Rædu sem eg hefe heyrt fyrer Deige og Manude / Item/ verde Guds Ords Þienara eitthvad a/ og talar þad sem hefde mattt vera i Þagnadargylldi/ ellegar þad sem oss var ecke um ad heyra / þa getur Madur feked epter þvi noogu audvelldlega/ fært þad a Þijng / bored Vitne þar um/ o.s.f. Hvert skyll de Madur þa ei geta eins ad eins vel og Jhugad/ þegar han kemur ur Kyrkiune heim i sitt Hus / leggur sig upp i Rum sitt/ Sæng/ þanig talade Guds Þienare i þeirre Predikun um Ofordyckiu / þanig talade han um Agyrne/ um Natur/ Ofund og Giandskap/ um Lauslæte/ o.s.f.

Gud hiälpe mier ad taka og giøra epter þessu. Allt þetta innebindur Jacob i þeirre 1, 4. og 5. Reglu.

A sama Nott : Hvada Raudsyn bregur Man til ad svara Gude i sijnu Hiarta til hans Orda/ellegar ad ut hella sine Beiskiu og Reide/hvad þo optsinnes hafnig skedur/ ad einn svarar Guds Ords Þienara i Predikunar-Stoolnum/ Einn Aftar stundar epter hanns Æru og Velferd/og sosvirder hann þar fyrer/ Hvert munde Madur ecke geta komest hiaa þessu? Þegar einn Boonde stendur framme fyrer sijnum Husboonda ellegar Yfervallde/ skal svara fyrer sijna Vanskick'un og lijda Giølld þar fyrer / þa getur hann ad vijsu sett Tonn fyrer Tungu / bundest fyrer Reide og Smanar-Ord / talad þeim bestu Ordum sem hann hefur lært / af þvi hann er hræddur fyrer ødru verra. Skyllder þu ecke geta giørt eins/ og tied. hid sama þeim Almattugasta Gude a hanns Þienara / Vitande / ad hvad sem þu giører Guds Þienara/ þad

giører

giorer þu sialfum Gude og þijnum Drottne Christo / J hvers Stad hañ stendur / so sem Christur sialfur seger med liosfum Ordum / Luc. 10. v. 16. Hver ydur heyrer / hañ heyrer mier / og hver ydur forsmaar / hañ forsmaaer mig / Eñ hver mig forsmaaer / hañ forsmaar þañ sem mig sende : Mundu og so til þess / Ad sa same Gud giörer allt þier til hins besta fyrer siñ Þienara / eñ vanbruker þu hañs Langlundar-Gied / og forherder þitt Yðrunarlausa Hiarta / þa safnar þu þier so sem i eina Krukku / hañs Ognarlegre Reide / er mun koma yfer þig a Doomsins Dege / Rom. 2. Og er þetta þad sem Jakob heimter i Ättarre og Þridiu Reglu.

Sijdañ ad giöra epter Ordenu fram vegis / so sem su Siötta Regla hliood-ar / og ad burt taka þa yfervættes mykilu Bondsku / þa er þad ædur so utskyrt og bevijsad i þeim Fimta Capitula / ad hver eiñ getur teked og þreifad a þvi / ad þad eru sialf Guds Saſiende / ad vier

